sierdeilis med soddan ovmrædelegre oseigäligre æst z elsku þijns Sonar.

Nuørnen kañ nockur Misgiørningur ad vera so stor/ad hann þyrer Sonarens æsirijkan blodugan Sueita/og þyrer hans Heilaga dyrmæta Blod ecke verda kunne aþ þueigenn og Hreinsadur?

Nuør Glæpr er nockurn tijma so hrædeligur/ad hñ þyrer bitran Dauda og beisku Pijnu Jesu Christi/ ecke kunne ad verda þyrergieþen/borgadr og bitaladur?

## VII.

## Agiæt Packargiørd til Gu-ds Fødurs/þyrer alla Velgiørninga sem hañ heþur veitt oss þyrer sinn Son Jesum Christum.

Syrach. 43. Loþed og dyrked Drottin þad preinst þier þormeiged/ þo er hann eñ hærre / prijsed hañ aþ öllum Kröptum/ og læted ecke aþ / þo munu þier þad ecke

Augustinus.

Himneske Fader/þu hinn go de og giæskuþulle sem elskar oss aumar Manneskiur/ Eg giøre þier þacker aþ Hiarta/ad þu þyrer þinn Son heþur skapad mig þa eg var eckert/og þa eg vegna minna Synda var þortapadur/heþur þu mig dasam lega leyst og Frelsad aptur.

Ad vissu/ Eg þacka þinne Nad z Giæsku/z aþ øllu hiarta seige eg þier Loþ og þackargiørd/þyrer þad ad þu heþur aþ þinne omælanligre ast z Elsku / huøria þu haþder til vor aumra og overdugra Manna/ oss þurdanlega Elskad/og heþur sent og gieþed þinn eingeten Son vt aþ þijnu skaute oss auma z Synduga saluholpna ad giøra/vier sem vorum Børn reidennar og Daudans.

Eg þacka þier Himneskur Fader fyrer hans heiløgu Holldgan z hingadkomu/ad þu hefur vorrar Sælu hialpar vegna læted hañ taka mann domlega Nætturu af sinne blessadre Modur/so ad hañ skyllde verda sañur Madur af henne fæddur/ lijka so sem hñ er sañz Gud af Gude komen.

Eg þacka þier eilijfur Gud fyrer hans Kusl/ Kross og Pijnu/ fyrer hans Dauda og Vppriśu/fyrer hñs Vppstigning og Setu j Dyrdenne/ til þinnar hægre Handar. Þuiad a hinum fertugasta Deige epter sijna Vppriśu/þa er hann vpp faren yfer alla Himna ad asiaøndum sijnū Lærefueinum/og sette sig til þiñar hægre Handar/og hefur vthellt þeim heilaga anda/epter sijnu Fyrerheite yfer oss/ vier sem erum hñs samarfar.

Eg þacka þier Drottenn miñ Gud

þyrer hans dyrmæta Blod sem hann
heþur vthellt oſſ til endurlausnar/Eg
þacka þier þyrer þad heilaga hugg-
unarsamlega Sacramentum hans
Hollds z Blods/mz huøriu vier dag
lega j christeligre Kirkiu verdū sad-
der/lijþgader/hreinsader og helgader
og erum hluttakarar ordner þinna
Velgiørninga.
Eg þacka þier himneskur Fader
þyrer þijna dasamlega og oseigianle
ga ast og elsku/med huørre þu oss o-
verduga heþur so storliga elskad/ og
þyrer þinn elskuligan Son oss sælu-
holpna giørt. Þuiad so heþr þu Dr-
otten Heimen elskad/ad þu gaþst wt
þinn eingieten Son/vppa þad/ ad all
er þeir sem trua skule ecke þortapast
helldur haþa eilijþt Lijþ/ Enn þad er
eilijþt Lijþ/ad þeir þyrer sanna Tru
og rietta truarenar auoxtu þecke og

vidurkiēne þig ad vera alleina sann-
an Gud/ og Jesum Christum þann
sem þu vtsent heþur/ Amen.

VIII.

# Agiætleg Hugleiding og

Hugran vm þa myklu Guds Nad z
Giæsku / sem er yþer öllum þeim/
sem jdrast Syndanna:

Psalm. 103. Myskun Drottins varer þra Eilijþd til Eilijþdar yþer þeim sem hañ ott ast/og hñs Riettlæte yþer Barnaña börnū.

Augustinus.

Drotten Skapare allra Hluta dasamlegur ertu j öllum þijn um Verkum/ Eñ allra hellst og mest ertu dasamlegur med þinne Nad og Myskun/ Þar þyrer heþur þu so talad þyrer Muñ Þions þijns Dauids/ Drotten hañ myskunar sig yþer öll sijn Verk.

Þad er og eirnen vor Tru/ ad þu meiner allt þitt Folk/ og huørn eirn

fierdeilis/ þar þu so talar/ Minne Myskunsemd vil eg ecke snua fra hø num. Þuiad þu Drottenn fyrerlijtur onguan/ ef ad vor Vantru velldur þui ecke. Þu ert ecke fliotur ad ref/ sa j þiñe Reide/ Helldur ertu nædug/ ur øllum þeim sem þig styggia/ef ad þeir ad eins giøra Jdran.

Minn Gud sem ert Horn mijns Hialprædis og mitt Skiol/ Eg aum ur hefe styggt og modgad þig/ Ja/ eg hefe jllt giørt fyrer þijnu Auglite/ Þijna Reide hef eg vppuaked/ z þij/ na Refsing hef eg forþient/ Eg sy/ ndgadest/ og þu hefur hlijft mier/ Eg hefe jlla breytt/ og þu hefur enn nu Þolenmæde vid mig.

Ad vijsu Drotten/ Þegar eg giø/ re Jdran/ þa hlijfer þu mier z væg/ er/ Þegar eg sny mier til þijn/ þa tek ur þu vid mier. Ja ad vijsu/ Þa eg

dreg vndan ad jdrast/þa bijdur þu ep
ter mier. Þa eg þer villt/ þa kallar
þu a mig. Þa eg þuerskallast a mo-
te þier/þa lockar þu mig. Þa eg letst
vpp z tregast/þa bijdur þu epter mi
er. Þegar eg kiem til þijn/ þa tekur
þu vid mier. Þegar eg er hryggur/
þa huggar þu mig. Þegar eg þell/
þa reiser þu mig vid aptur/ z giører
mig heilan/Þegar eg bid/þa bænhey
rer þu mig/Þegar eg leita/þa lætur
þu mig þinna/ Þegar eg klappa a
Dyrnar/þa lætz þu vpp þyrer mier.
Sia þu þa Drottenn Gud minn
Saiasnare Fader og Frelsare/huørnen
kann eg þetta þier ad bitala? Nuar
m/d kañ eg þier lijkt þyrer lijkt ad en
durgiallda? þad er mier ecke møguli-
gt. Nu er þar eingen Hialp annar-
stadar eñ hia þier/ Ja/eg veit huør-
ge ad þlyia nema til þijn/ Þu heþur

vijsad mier Veigen a huørium jeg a
riettelíga ad ganga/og læted mig vi
ta huørnen eg a ad lifa. Þu hefur
hootad mier Helujte/enn fyrerheitet
mier Paradijsar Fognude/ef eg hlyd
de þier.

Nu bid eg Fader Myskunarenar
þu Gud allrar Huggunar/Graf þu
mitt Hiarta j giegnum mz þine skiel
fingu/so ad eg med Otta z Hrædslu
meige fordast þad þu hefur mier ho
tad/Og hugga mig aptur mz Hialp
þine/so eg med Glede medtake og ød
lest þ sem þu hefz mier fyrerheited

Drotten min Styrkur/mitt ørugt
Vijge/mijn Hlijfd/min Gud z min
Frelsare/Mintu mig a þad huad eg
a ad hufa vm þig/Kiendu mier ad a-
kalla þig/og gief mier þau Verk ad
giøra sm̃ þier eru þægelig/fyrer þin
Heilaga Anda/vegna þijns elskulíga

Guds Födurs J
Sonar vors Drottins Jesu Christi/
Amen. IX.

# Ein huggunarsamleg Bæn

j huørre ad þackláát Hiarta gledur sig vid oseiganlega æst og Elsku Gu ds/sem hann hefur oss synt j sijnum elskulega Syne.

1. Joh. 4. J þui birtest Guds Kiærleike til vor/ad Gud sende sīn eingieten Son j þeñan Heim/so ad vier mættum lifa fyrer hañ. Þar jñe er falen Kiærleiken/Ecke þad ad vier höfum elskad Gud / helldur hefur hañ elskad oss/og sent sīn Son til Forlykunar fyrer vorar Synder.

Augustinus.

DHuilijk oseiganlig Giæska og ovmrædelig Elska er slijkt? Þiñ Son hefur þu/Gud Fader og Drotten vtgiefed/til ad endurleysa þiñ Þræl. Gud er orden Madur/so ad su synda z forfapada Mañeskia leyst og frelsud yrde fra Diøfulsins Vallde.

Vor Gud/huørsu hiartanliga he pur þiñ Sonur Mañeskiuna elskad? Hañ liet sier ecke nægia ad audmyk- ia og lijtelæcka sig/ z fædast Mad- ur af Jonfru Maria/helldur þa he pur hñ lided Pijnu og dauda a Kross enum/ og hefur vthellt sijnu Blode vegna vor/og vorrar Sæluhiálpar.

Sa Millde z myskūarpulle Gud er komen/hañ er komen epter Giæsku z Godgirnd siñe. Hañ er komen vpp ad leita og sæluholpeð ad giøra þad sem fortapad var/Hañ leitade epter þeim tynda og tapada Saud/og hef ur funded hañ/ og lagt hañ a sijnar Herdar/og bored hañ aptur til Sau dahwssins / sa gode Gud ogtrufaste Hirder.

Oh huilijk Elska/huilijk Giæska er slijkt? Huør hefur slijkt heyrt eda sied? Huør vill læta soddan hiartan-

liga Myskū ecke ganga sier til Hiar
ta? Huørn vill slijkt ecke storliga þur
da? Huør vill ecke þagna z vera gla
dur/ aþ soddan ast og Elsku sem þu
heþur synt oss?

Drotten Gud vor/ Þu heþur sent
Þinn Son/ so ad hañ tæke a sig My
nd syndsamligs Holld8/ til ad þordæ
ma Syndena/ Þuiad hañ er Þad ri-
etta og sanna þleckłausa Lamb sem
burt heþur teked Veralldareñar syn-
der/ og heþur med sijnum Dauda vo-
rn Dauda ad ønguu giørt/ og þyrer
sijna Vpprisu gieþur hann oss Lijþ-
ed aptur.

Vor Gud/ Huørnen gietum vier
þier so stora haleita Velgiørninga
endurgollded? Huad þyrer Loþ og
Þackargiørd kuñum vier ad veita Þi
er? Þo vier heþdum Visku heilagra
Eingla/ þa gietum vier alldrei sodd-

an Giæsku og Myskun þier bitalad/ Ad vÿsu/ þott aller vorer Lider z Timer kynne ad tala/ þa ꝥaum vier þier þo alldrei ꝥullþackad/ Þuiad þÿn ovmrædelig ast og Elska sem þu heꝥur synt og veitt oss overdugum/ aꝥ þinne Giæsku/ hun yꝥer geingur allan vorn Skilning.

# IIII.

# Capitule

Heꝥur inne ad hallda Bæner og Þackargiørder til Guds Sonar/ sem er Herran Jesus Christus.

## I.

## Ein Bæn til Herrans Christum/ j huørre Hiarta Mannsins medkieñer sÿna Synd/ og bidur vm Syndaña ꝥyrergieꝥning.

psalm. 103. Hañ breyter ecke vid oss epter vorum Syndum/og ecki endurgieldur hañ oss epter vorum Misgiörningum.

Augustinus.

HErra Jesu Christe miñ frelsare/ Eg jata og med geing miñ Misgiørning/ fyrer þyñu guddomligu Maiestatis Augsite/Sia þu Drotten/J Syndeñe er eg gieten z fæddur/z þu hefur þueiged mig og hreinsad/Eñ þar epter a hef eg saurgad mig aptur ad nyiu med meire og stærre Syndum/Þuiad j vppruna Syndeñe er eg fæddur enn j gioranligum Syñdum hef eg minn allan Alldur alid.

Enn þu Drotten Jesu Christe/ minntest a Myskun þyña/ z tokst mig wr Nwse myñs holldligs Fødurs/og wr selskap Syndugra/og gafst mier bad j Hiarta ad fylgia þier/a samt

med þeim ødrum sim leita þijns And lits/og ganga a riettum Veige.

Enn þyrer soddan Velgiørnin-ga heþ eg vered oþacklætur/eg heþe giørt margt jllt og þramed þiølda Synda/Og j þann stad eg heþ ætt ad betra min̄ Liþnad/þa heþ eg Syndum og Glæpum auked og saþnad.

Auvij Herra Jesu/Eg heþe Syndgast/ja jeg sem þu skapad heþur epter þinne Mynd/jeg heþe þig vanheidrad/z saurgad sialþan mig mz met nade/Siergæde/Saurugleika z þleirum ødrum Syndum/med hnørium mijn auma Sæl er þyngd/ pijnd og plægud.

Sia þu Herra Jesu/Mijnar Synder ganga mier vpp yþer Høþud/ so sem ein obæreleg Byrde eru þær mier oþ þungar/ Og þar sem þu hielldet mier ecke vid magt med hægre Hende

þiñar Dyrdar/þu sem ert aꝼ Nꝍtt
uru til Myskunsamur/ þa munde eg
aumliga ꝼyrerꝼarast.

Minstu Drottenn þar æ/ad þu ert
sa sm̃ mig hreinsar ⁊ helgar/Sia þu
huørsu miñ Ovinur hann hælest vm
vid mig/og seiger/Drotten heꝼur yꝼ
ergieꝼed hañ/Elted hañ og grijped/
þuiad þar er eingen sem hialpar høn
um. Snu þier vid Drottēn minn/ ⁊
ꝼrelsa Sæl mij̃na/Hialpa mier veg-
na þinnar Myskunar.

Herra Jesu/sia þu aumur a þiñe
Barnskiepnu/ huøria þu heꝼur aled
med storre Kuøl og Pij̃nu/ Og lijt
ecke so granduarlega a mij̃nar Jllsk-
ur og Synder/ad þu þar ꝼyrer gley-
mer þinne Myskun. Huør er sa Fad
er ad hañ hialpe ecke Barne sij̃nu ?
Huør er sa Sonur sem ecke þarꝼ hir
tingar vid ?

O Herra Jesu/ elskulege Fader/ Po ad eg sie syndugur/ þa er eg þo þinn Sonur/ þuiad þu hefur skapad mig og endurleyst. Jeg hefe syndgad og jlla breytt/ fyrergief þu mier þad. Og þo so sie/ ad þu ager z tyfter mig/ þa yfergief þu ecke Barnskiepnu þijna. Kann nockud Moder en ad gleyma Barne sijnu/ so hū siae ecke aumz a sijnu Afkuæme/ sem hun hefur bored fyrer sijnu Hiarta? Nu þo hun gleyme þui/ þa hefz þu Himneske Fader tilsagt og lofad ad gleyma mier alldrei. Herra Jesu Christe/ Styrk þu Hiarta mitt/ med þssu þijnu huggunar Fyrerheite/ allt til minna æfeloka/ fyrer Krapt og Hiastod þijns Heilaga Anda/ Amen.

# Ein huggunarsamleg Bæn

J huørre Madr hugleider z klagar huørsu ad han med sijnum Syndum sie Sök og Efne til Pijnu og Pijslar Jesu Christi/og huggar sig þo vid hans Nad z Myskun.

Esa. 53. Ad sönnu þa bar hann vorn Siukdum/og vorū Hrygdum hlod hn̄ a sig.

Augustinus.

O Herra Jesu/ huad hefur þu vnnid til/þu elskuligaste Guds Sonur/ad þu ert so vtleiken? Huad hefur þu þess misgiørt/ ad so er sargrætelega med þig fared? Nu ad hefur þu syndgad? J huøriu hef ur þu misgiørt? Huør er søk z efne til þijns Dauda? Huørnen kiemur þ til/ ad soddan afellis Domur er yfer þig felldur?

Jeg/ Jeg er soken og efned þar til/ad þu ert so pijndur/Hia mier/hia mier er Soken til þijns Dauda.

O Herra Jesu/pad þu ert Lijþlatep pad er mÿn Skulld/ Pad þu ert pÿn dur z kualen/pad heþ eg verkad/jeg er hañ sem þig heþur sært og sleiged/ og þier erþide giort med mÿnum Syndum.

Miñ Lausnare/huorsu þurdulegur og þaheyrdur Vrskurdur er þtta? Huad ovmrædelegur Leyndardomur er slijkt? Sa Ranglæte syndgar/ eñ hinn Riettlæte lijdur Refsingena þar þyrer/Sa seke viñur til Refsingareñar/eñ hinn Saklause ber Skulldena/og verdur refstur/ Sa Ogudlege heþur vppbyriad pad vonda/eñ sa Heilage þær aþellis Domen þar þyrer. Huad sa hiñ vöde heþr þorskulld ad/ þess verdur sa hinn Riettlæte ad giallda. Huad Þrællen misgiörer/ þar þyrer verdur Herran ad bitala/ Huad Mañeskian heþur broted/ þess

verdur sialþur Gud ad giallda.

Oh þu eilijþur Sonur Guds/ Nu ad mykel er þijn Audmykt? Nuørsu breñande er Aast ⁊ Elska þijn? Nu ad rijkugleg er þijn Myskun? Nuørsu yþergnæþanleg er þijn Giæska? Nuad dyrleg er þijn Goduilld? Nuer su hiartanleg er þijn Medaumkan? og Myskun? Eg heþ syndgast/ enn þu tekur Giollden þar þyrer/ jeg heþ jlla giørt/ enn þu verdur reþsadur/ Jeg heþe broted og misgiørt/ enn þu verdur þar þyrer pijndur. Jeg var drambsamur/ eñ þu verdur lijtelæckad ur/ Eg var ohlydugur/ eñ þu heþur med þinne Nlydne bitalad Reþsinge na minnar Ohlydne/ Jeg heþe liþad j oþneyslu Matar og Dryckiar/ enn þu leidst Nungur og Þorsta/ Mijn vond Girnd heþur driþed mig til syn da og Glæpa/ eñ þijn hiartanleg æst

z Elſka kom þier vppa Kroſſen min
na vegna/ Eg æt aþ þui ſem mier
var bañad/eñ þu verdur pijndur þar
þyrer / Jeg heþ neytt þeſſ kræſelega
og lyſtuga/ enn þu leidſt þa beiſku
Kuøl a Kroſſenum/ Jeg heþe liþad
j Vellyſt og Sælgiæte/Enn þu lieſt
þig med jarngøddum negla a Kroſſe
enn/Jeg dreck þad ſem er ſætt og lyſt
elegt/Enn þu ſmackader þad ſem var
beiſkt z Swrt.

Sia þu Kongur Dyrdarennar/
Sia þu/ Hier er mijn Synd/eñ þar
er Næd þijn og Myſkun/ Sia þu
Jeſu miñ Lauſnare/ þetta er mijn
Ohlydne/eñ þar liomar þitt Rættlæ
te. Miñ Kongur z miñ Gud/huørn
en a eg ad bitala þier allt þ gott ſem
þu heþr veitt mier? Hialpa mier Her
ra Jeſu Chriſte/ad eg mætte med
ſtødugre Tru loþa z dyrka þig/hier

ſtundlega eñ añars Neimns eilifle-
ga/ Amen. III

# Ein hugarlatleg Bœn til Herrans Chriſtum/ vm Fyrergiefning Syndanna/ og vm nytt Chriſtelegt Framferde.

Pſalm 143. Drotten/ kendu mier ad lifa epter þynum Vilia/ Þui þu ert miñ Gud/ Lat þiñ goda Anda leida mig a riett/ añ veg.

Auguſtinus.

JEſu chriſte/ þu eilifa Ord Foburſins/ þu ſem komen ert j þeñ an Heim ſaluhiolpna ad giøra þa Syndugu/ Eg bid þig fyrer þyna Hiartgrona nykla Myſkun / bæt þu miñ Lifnad/ og endurnya mig j mijnu Lyfe og Framferde.

Minn Gud/ tak fra mier huad mier er ſkadlegt/ og þad ſem þier ecke þocknaſt/ og gief mier þad ſem þier er þægelegt z mier er gagnlegt/ Nu-

ør kan ad hreinsa þann sem getten er aff syndsamligu Sæde/ vtan þu alleina ? Þuiad þu almættugur Gud ert ovmrædelega mykell og godur/þu sem riettlætan gíører þann Ogudlega/og lijffgar þann sem vegna Synd anna er daudur/Þu sem ad snyr þeim Synduga fra hans raungum Veige so ad hann syndge ecke framar meir.

Minn Lausnare/tak burt fra mi er allt þad sem þier er ecke þægelegt/ Þuiad þu sier minn Vanmætt/z þu veist minn Brest allan. Riettu ad mier þijna myskunar Hønd/ og suipt fra mier øllu þui sem fyrer þijnum myskunar Augum er ecke þægeligt.

Drottenn/fyrer þier er huørtueggi ia Heilbrigde mijn og minn Vanmattur/jeg bid þig/halltu mier vid Heilsu mijna/ og lækna minn Siukdom.

Lækna mig Drottenn/ þa verd eg

heilbrigdur/ Hialpa mier/ þa er eg holpen/ Ja/ þu Drottenn sem læknar þa Siuku/ og helldur þeim vid Heilsuna sem heilbrigder eru/ Þu alleina med Orde þijnu einu riettet þad vid sem ballad er og bordiarbad/ Þuiad ef þu villt nidur sꝏ þijnu godu Sæde j Akur mijns Hiarta/ þa hlytur þu ꝏdur ad rijfa j burtu Þyrnena minna Synda med þinne myskunar Hende.

Þu hinn sæte/elskulege/goode og gicefkufulle/millde og Myskunsame/ þu allra liufaste Lausnare Herra Jesu Christe/ helltu j Hiarta mitt Aast og Elsku þiñe/ so ad eg hafe ei Girnd nie Gedþeckne a nøckru þui sem er holldlegt edr jardneskt/ Helldur ad eg elske þig alleina/og hafe þig alleina j mijnu Hiarta ꝛ j mijnū Munne. Skrifa þu med Fingre þijnum

a Hiarta mitt æstsamlega. Minning þijns sæta Nafns/ so ad eg gleyme þui ecke/ og ad ecke verde nockurn tijma afmæd Minning þijns Nafns wr Hiarta mijnu.

Vppkendra z kueik mitt Hugskot mitt Gud/ med Ellde þijns Anda/ so ad eg kunne ad fornfæra þier mz heitum Tarum hrygdarfullan Anda eitt klockt og sundurknosad Hiarta.

Skrifa þinn Vilia og þijn Riett inde a Spiolld Hiarta mijns/ so ad eg þig Drottenn/ þijna Giæsku/ þijn Bodord mier jafnan fyrer Augum hafe/ Amen. IIII

## Ein god Bæn/ j huerre Madur bidur hugarlætlega/ ad hans Hiarta/ sm er Steinenum hardara/ mætte vegna Aastar og Elsku Jesu Christi klökt verda/ og grata af Hiarta sijnar Synder:

1 Corinth. 16. Sie sa nöckur sem ecke el skar Herran Jesum Christum/ hañ sie bölua dur/til Dauda.

Augustinus.

HErra hinn gode z giæskurijke Herra Jesu Christe/Gief mier so sem eg af øllu Hiarta girnest/ ad eg kunne ad bera fram fyrer þig heilaga Aast og hreinferduga Elsku/ad hun mig eigneft og allan vpp fylle/Og veit mier þad ad eg til eins vissulegs merkis vm Aast og Elsku til þijn/mætte beisklega grata/og mz iafnade/so ad Tear mijn mætte bera vitne vm þ ad eg elska þig af Hiarta/og ad þau audsyne huørsu kiæran Sæl mijn hefur þig/ med þui hun kann ecke añad vegna heitrar Aastar þinar/enn ad grata.

Gode Herra/ Eg miñunst þar a/ huørsu ad su goda Kuiña Anna/ 1. Reg. 17. kom j Mustered/ bad þig

vm eirn Son/ vm huøria skrifad sten
dur/ ad þa hū hafde loked sine Bæn
med grætande Tarum/ þa var hun
ecke leingur sorgfull. Þegar eg nu
hugleide soddan Sine/ og soddan stød
ugleik/ þa hrellest eg z skamast mīn/
ad eg vesæll Madur er so alldeilis eck
ert/ og ad mitt Hiarta þad er so kallt
hia þui sem hennar Hiarta hefr veret.

Þuiad ef ein Kuinna kune so hiart
anlega ad grata/ og liet ecke af/ hun
sem ecke bad nema vm eirn Son/ Nu
sosu myklu framar meir ætte mīn
Sæl ad grata oaflætanlega/ hun
sem leitar ad þier / og feigen villde
koma til þīn? Oh huørsu miøg ættu
þær Sæler ad grata z anduarpa sē
Guds sīns leita Nott og Dag/ z ecke
elska annad en̄ Jesum Christū? San
arlega þa ætte Tæren ad vera þeir-
ra Fæda bæde Daga og Nætur.

Þar þyrer minn Gud/ Myskuna þu þig yþer mig/ Þuiad eg heþe stora Kuøl j mijnu Hiarta/ Gieþ mier þij na Huggun aþ Hinnum oþan/ z þyrerlijt ecke þessa synduga Sal/ þyrer huøria þu ert daen. Veit þu mier/ ad eg aþ øllu Hiarta kunne ad grata so eg yrde laus vid Synder mijnar/ z ad Sal mijn yrde þull aþ himneskū Føgnude. Og þo ad eg kuńe ecke mz þeim hrausku truarstyrkuu Forþedrū (huørra Fotsporum mier er omøgulegt ad na) ad bidia sem vera ætte/ þa lat mig þo med þeim gudhrædду Kuiñum þa og ødlast mitt lijted Hlutskipte j þijnu Rijke.

Jeg huxa og eirnen vm eina adra Kuinnu/ vm huøria skriþad stendur/ Johañ. 21. Huørsu hiartanlega hū heþur þig elskad Herra Jesu/ og aþ godþwsre æst epter þier leitad j Grø

ꝼeñc. Þui þa Lærefueinarner ſneru
heim aptur/þa veik hun ecke ꝼra Gr
øꝼeñc/ ſat þar hrygdarꝼull og ſorg-
biten/og griet ſtorlega/ſtod vpp jaꝼn
ꝼrame og leit jnn j Grøꝼena/ eꝼ ad
ſkie mætte hun ꝼeinge ad ſia þig/ hu-
ørn hun ſo hiartanlega elſkade/ Þui-
ad optar enn eitt ſinn heꝼur hun gein
ged j Grøꝼena/ vt og jnn / og heꝼur
ſkygnſt epter þier/ Enn vegna þeirr-
ar myklu Elſku ſem hun haꝼde til
þijn/ þa liet hun ſier þetta ecke næg-
ia/ Þuiad þad eina giører huørt gott
Verk gott ꝛ þægelegt/ eꝼ Madur er
ſtadꝼaſtur j þui enu ſama.

Nu med þui hun elſkade þig meir
enn adrer/ og griet aꝼ Aaſt ꝛ Elſku
þinne/ og leitade þijn med grætande
Tarum/ꝛ var ſtadꝼøſt j þui ad lei-
ta þijn/þar ꝼyrer heꝼur hun þig all-
ra ꝼyrſt ꝼunded ꝛ ſied/ og vid þig ta-

lad. Ad vijsu/þu openberader þig fyrer henne/ecke allemasta fyrst/helldur þa hefur hun allra fyrst Læresueinenum kũngiørt z bodad þijna gledelega Vpprisu/Þui þu baudst henne pad seigande/Far þu og seig mijnum Brædrum/ad þeir fare j Galileam þar munu þier sia mig.

So sem ad þesse Kuiña hun griet og liet ecke af/ og leitade þess lifanda j hia Daudum/ a hrærde þig med Truarennar Hondum/ Skyllde mijn Sal þa ecke oaflatanlega græta / hun sem truer a þig sin Endurlausnara ? og þig medkener/ þu sem ert a Himnum vppe.og stiornar øllum Hlutum? Skyllde mijn Sal þa ecke grata og anduarpa sem þig elskar af øllu Hiarta/og stora forleinging hefur ad sia þig og skoda.

O þu einka Son allra Þrra enu

aumu/og þeirra Skiol og Hæle/ þu
sem þÿna Myskun ecke afseiger noc
krum þeim sem þig bidur/ Vñ mier
þiñar Nadar/vegna þÿns heilaga
Nafns/so ad eg hyxe alla tÿma til
þÿn/tale vm þig/ skrifa og lese vm
þig/ og ad mÿn Ræda sie vm þig/
og ad eg sie iafnan minnugur þÿn/
kome iafnan fyrer þitt Auglit med
miñe Bæn/og fære þier mitt Lofgiø
rdar offur/Ja/ad mÿn Augu felle
Taar vegna þiñar elsku/ɀ fyrer þier
hiartanlega grate/af þeim Fognude
sem eg hef j þier/ Amen.

V

## Ein agiæt Bæn/ j huørre ad hrygdarfullur Ande hladen af fiølda Syndanna / huggar sig vid Jesu Christi Nad ɀ Myskun.

Psalm. 143. Drotten gaktu ecke j Dom vid Þræl þiñ/Þui ad fyrer þier er eingen lif

ande Madur Riettlætur.

Augustinus

O Jesu minn Endurlausnare/ Sia þu/ Eg a kalla þig z þu bænheyrer mig ecke/ Jeg lijd Kuøl og Angist/ og þu huggar mig ecke. Huad skal eg seigia? Huad skal eg aumur Madur til giøra? Mitt Hiarta er Huggunarlaust/ og eg er vtreken fra þijnum Augum.

Vei mier vesølum/ Huørnen er eg fallen j fra þeim hæsta Heidre/ z er komen j stærstu Neyd og Hørmung? Huørt ætlade eg mier? Huørt er eg komen? Huar er eg? eda huar er eg ecke? Epter huørium forleinger mig? Og huar er eg med mine Bein an og Anduarpan? Auvij/ Auvij.

Eg meinte eg hefde hrept þ hid Goda/ Eñ sia/ þar er ecke nema skad semd. Sia/ nu verd eg ad deyia/ z min

Jesus er ecke m\z mier. Ach z Auvij Betra være mier ad vera alls eckert/ enn ad hafa ecke Jesum med mier. Betra er ad vera ecke lifande/ enn ad lifa an hans sem er Lijfed.

O Herra Jesu/ Huar eru hinar gømlu Myskunsemder þijnar? Villtu æfenlega vera reidur? Vertu mier vm sijder nadugur/ myskuna þu mier/ og snu ecke Auglite þijnu fra mier/ Þui þu snerer þui ecke fra þm sem spyttu og hræktu a þad/ þa þu endurleyster mig.

O Jesu minn Lausnare/ minn Hialpare/ Eg medkienne z jata fyrer þier/ eg hefe syndgast/ z mijn Samuitz a hefur Fyrerdæmningena forþient/ og mijn Jdran er ecke nogleg þar fyrer. Enn þar a mote þa er þad vijst z satt/ ad þijn Myskun er stærre enn allar Heimsins Synder.

Gode Herra Jesu/ gack ecke j dom vid Þræl þinn/ helldur afmaa og vtsliett mÿnar Synder epter stærd þinnar Myskunar/ Amen.

## VI.

## Ein øñur Bæn/ j huørre ad Mañsins Hiarta Syndaña vegna/ er miög skialfande fyrer stranga Guds Riettlæte/ enn huggar sig þo vid Jesu Christi Nád/ og bidur vm gott + gudlegt Framferde.

1 Timoth. 1. Pad eru vissuleg Sañende og eitt dyrmætt verdugt Ord/ ad Jesus Christus er komen j Heimen/ til ad gióra sælu holpna þa Syndugu/ a medal huörra eg er hinn hellste.

Augustinus

WEi Vei mier vesølum/ þegar Dagur Domsins kiemur/ og Bækur Samuiskñaña verda vpplatnar/ þegar sagt verdur til nÿjn Siaed þar Mañ z hñs verk. Herra

minn Gud/huad mun eg þa seigia? Þegar Himenenn openberar mijnar Misgiørder/ ⁊ Iørden stendur mier j mote? Sia þu/eg mun ecke gieta suarad einu Orde/helldur mun eg med Skialþta ⁊ hrædslu stāda þyrer þier skamest mijn/ ⁊ ecke þora ad vplypta mijnum Augū/ eda ansa einu Orde.

Vei mier vesølum / Huad skal eg giøra? Eg vil hropa ⁊ kalla til Guds mijns Drottins/Þuiad/huar þyrer skal eg þeigia ⁊ þordiarþast? Nu þo eg vilie tala/þa minkar ecke mijn Pijna ad helldur / Enn eþ eg þeige/ þa heþ eg hid jnnra stora Hiartans Kuøl og Angist.

Oh mijn Sæl/græt þu so sem ein Eckia sem mist heþur Brwdguma sinn/Græt þu hin auma Sæl/Þuiad þinn Brwdgume/ þad er Christur/hañ heþur yþergieþed þig. O þu

Reide hins Almattuga Guds/ þall þu ecke yþer mig/ Þuiad þu ert mier obæreleg og olÿdanleg. O Jesu miñ Lausnare myskuna þu mier/ Hialpa þu mier so eg oruilnest ecke / helldur ad eg mætte hressast vid. Og þo eg haþe þorskulldad eilÿþan Dauda og Fyrerdæmningena / þa heþur þu þo loþad ad hialpa mier/ Þuiad ecke girnest þu Drotten daudá hins Syndugа/ og ecke heþur þu Giedþeckne a nøckurs mans Fordiarþan. Ad vÿsu þu ert daen vppa þad ad þeir daudu mætte liþa / og þyrer þinn Dauda/ heþur þu deydt Daudan hins syndugа/ og þyrer þinn Dauda erum vier liþande ordner.

Miñ Gud og Herra/ Eg bid þig lát mig ecke þordiarþast j mÿnum Syndum/ Þuiad þu ert Lÿþed/ Riett þu Hønd þÿna aþ Nadenne oþan/ z

þrels mig þra Syndum mijnum/ so ad Andskolen þagne ecke yþer oþørum mijnum/ og seige/ Eg heþ hann vppsuelgt og sigrad.

O gode Jesu/ huør vill neckurn tijma haþa Eþasemd eda mistraust a Myskun þiñe? Þuiad þa vier vorum j ovinskap vid þig/ þa leyster þu oss med þijnu Blode/og sætter oss vid Gud/ Sia þu/ vnder skugga Myskunar þiñar er eg holpen / og eg þly til Nꝍdarstolsins þiñar Dyrdar/ ꝛ bid vm Nꝍd og Hialp/ Eg kalla ꝛ klappa a Dyrnar/allt þangad til þu ster aumur a mier/ og lꝍtur vpp þyrer mier.

Þuiad med þui þu kallader oss til Nꝍdareñar/þa vier leitudum heñar ecke/Huad myklu þramar munum vier nu Nꝍd ødlast/eþ ad vier girnūst hana og leitum heñar aþ Hiarta?

Þu milldе og Myſkunarþulle Je=
ſu/ huxa ecke vm þitt Rettlæte vid
mig Syndugan/ helldur minſtu a
Myſkun vid mig Skiepnu þijna.
Minſtu ecke a Reidena vid þann Se=
ka/helldur a Myſkun þijna vid þann
Auma. Gleym þu Drambſeme þeſſ
ſem þig modgad heþur/ og alijt þañ
auma ſem þig akallar. Huad er Je=
ſus? Er hañ ecke Lauſnare/Frelſa=
re/ Hialpare? Þar þyrer hialpa þu
mier Jeſu þyrer ſialþan þig/og ſeig=
du ſo til Sælar miñar/eg er þijn Hi=
alp. Herra Jeſu/eg þorlæt mig viſſu
lega vppa þig/ vppa þijna Giæſku/
huiad þu heþur kient mier ad leita/
bidia og a ad klappa.

Og med þui ad þu ſialþur amiñ
er mig/þa vil eg leita og bidia z ber=
ia. Drotten þu ſem ſkipar ad bidia/
lat mig þad þa/Þu ſem kieñer mier

ad leita/lꝏt mig þad finna/Þu sem
bydur mier ad beria/lꝏt þu vpp fyr=
er mier. Styrk þu mig/ þuiad eg er
veykur/ hialpa þu mier/þuiad eg er
tyndur og tapadur/Vppuek þu mig/
þuiad mitt Hiarta er daudt.

Styr og stiorna øllum mïnum
Skilningarvitum Ordum og Hug=
onum og Giørdū epter þïnum Vil=
ia/so ad eg nu hier epter þione þier/
elske þig/og giefe mig þier j Valld.

Drotten/eg veit vel/eg er þier skyll
dugur vm sialfan mig/þuiad þu hef
ur skapad mig. Enn med þui þu ert
orden eirnen Madur fyrer mig/ þa
er eg meira skylldugur þier enn vm
sialfan mig/være þad møgulegt/Ja
ad vïssu/eg er þier vm so myked skylld
ugur/so sem þad þu ert meire enn eg
fyrer huørn þu hefur þig sialfan
vtgiefed.

Eñ minn Lausnare/ lijttu þar a/ ad eg ad eins þorma z megna eckert/ Nelldr z eirnen/ ep eg þormegna nockud/ þa giet eg þ ecke ann þiñar hialpar giørt. Þar þyrer tak þu mig ad þier/ drag þu mig til þijn/ so ad eg verde þinn/ og elske þig aþ Hiarta/ og epterþylgie þier. Þuiad eg er þiñ vegna þess ad þu heþur skapad mig/ og endurleyst mig/ Þu sem liþer og rijker eilijplega/ Amen.

VII

## Ein gømul god Bæn vm Naþned Jesu / J huørre christins Mans Hiarta/hugger sig vid Naþned Jesu/og Bidur vm alla gooda Hlute:

Act. 10. Þessum bera aller Spamenn vitne/ad þyrer hans Naþn skulu aller þa Syndaña þyrergieþning þeir sem a hñ trua.

S. Bernhardus.

O Herra Jesu/ O sæte Jesu/ O Jesu Sonur Mariu Meyar full ur Myskunar og Sannleika. O sæte Jesu/ myskuna þu mier/ epter mykeleik Myskūar þiñar. O millde Jesu/ eg bid þig/ fyrer þitt dyrmæta Blod/ huøriu þu vthellter a Krossens Trie fyrer oss auma synduga Meñ/ tak fra mier allt mitt Ranglæte/ og fyrerlyt ecke mijna Bæn.

Sia/ Eg akalla þig audmiuklega/ og tilbid þitt allra helgasta Nafn JESVS. O sæte Jesu/ Huørsu huggunarsamlegt er þitt Nafn? O millde Jesu/ Huørsu dyrlegt er þitt Heite? Þuiad Jesus er ecke añad eñ Lausnare/ Frelsare/ Sæluhialpare/ Þar fyrer þu gode Jesu/ sem mig hefur skapad/ og mig hefur med þijnu dyrmæta Blode frelsad/ læt mig ecke fordæmast/ huørn þu af onguu efne

ſkapader. O gode Jeſu/ lꝍt ecke mijn ar Miſgiørder glata mier/ hüørn ad almꝍttug Giæſka þijn giørde hier.
O gode Jeſu/ Afijttu þad mz mier ſem þitt er/ enn aþmꝍ og burt tak þu þra mier allt þad ſem jllt z añar legt er. O millde Jeſu myſkuna þu mier a medan myſkunar tijmen er/ og glata mier ecke a tijma þijns hrædelega Doms. O gode Jeſu/ Eñ þo eg aumur Syndare haþe þorþient z verdſkulldad med riettu tilijþa Kuøl og Pijnu/ ſøkum minna þungra Synda þa appellera eg nu þra Riettlæte þijnu/ z ſkyt mijnu Mꝍle til þinnar omꝍlanlegrar Myſkunar/ ſo ad þu myſkuner mier ſo ſem milldur Fader og Drotten.
Þuiad huørt Gagn heþur þu þar aþ Drotten/ þott eg þordæmiſt? Þui ad ecke loþa þeir Daudu þig/ og ein-

gen af þeim sem nidur fara til Hel-
uítis. O þu myskunsamaste Jesu
Myskuna mier aumum og Syndug-
um/O þu allra sætaste Jesu/ frelsa
mig. O gode Jesu líknsamur vertu
mier aumum z Syndugum. O Jesu
læt mig koma j tølu þinna Vtual-
dra manna.

O Jesu/Hialpen allra þeirra sm
vona a þig/myskuna þu mier/O Je
su/sem ert Lausnare allra þeirra sem
trua a þig. O Jesu sem ert Fyrergi
efning allra mina Synda. O Jesu
Mariu Sonur/helltu yfer mig þine
Nad/Speke og Kiærleika/ Elsku z
Hreinlijfe/Hlydne og Lijtelæte/so eg
kunne j øllum Motgange/ ad hafa
heilaga Þolenmæde/ þig fullkomle-
ga ad elska/ og j þier ad glediast og
fagna ad eilijfu/ Amen.

VIII

# Ein god Bæn til Guds son ar/ j huørre ad Madur jatar og vid urkiener Herrans Jesu Velgiörninga og huggar sig hiartanlega vid þa.

Gen. 32. Drotten/ minne er eg allre Myskunsemd þinne/og allre Trygd sem þu veitt hefur Þræl þynum.

Harmag. Jerem. 3. Myskun Drottens er þad/ ad vier erum ecke aller eydilagder/ og hans Giæska hefur önguan Enda.

Augustinus.

HErra Jesu Christe/mitt Lausnare og mitt Gud/ Þu hefur skapad mig þegar eg var eckert/ Þu hefur endurleyst mig þa eg var glatadur/ Jaa/ af ongus hefur þu skapad mig/ þu hefur ecke læted mig verda Fugl/ nie annad ferfætt skynlaust Kuikinde/ helldur eina Manneskiu/og hefur giefed mier Lijf z Ønd/ Skyn og Skilningar vit.

Og þa eg var fyndur og fapadur/ þa komstu aþ Himnum oþan minna vegna/ þu odaudlige til þins daudlega/og heþur teked a þig Hollð z Blod eins z eg heþ/ ert þyrer mig dæen og heþur sigrad og yþervnned alla mjna Ovine. Og med þessum hætte heþur þu gieped mier aptur Lijþ og Heilsu/og alla tijma heþur þu læted þijna Rad og Myskun vera mier til reidu.

Þu heþur og eirnen j mørgum haskasemdum mig þødurliga verndad og vardueitt. Þu lætur eñ ecke aþ ad veita mier Mat og dryck z alla atuiñu og ad lata kienna mier z hugga mig Þu syner mier þitt Hialpræde/z lætur mig vita huørnen eg a christelega ad liþa og deyia/so eg sæluholpen verde. Hier vm ætta eg jaþnlega ad huxa/og hier þyrer ætta eg þier ad

þacka aþ øllu mijnu Hiarta.

Min̄ Gud/ huørſu hæleiter eru þij ner velgiørningar mier til Handa? En̄ miøg lijtils heþ eg þa acktad og ecke eina þøck þier þyrer þa golldeð.

Þu haþder ſkapad mig þagran og þurdulega Agiætan/ enn huørſu aumlegur og herþelegur er eg orden? J Syndeſe er eg gieten og þæddur/ En̄ med þijnu Blode heþur þu mig hreinſad og þueiged og helgad/ enn eg heþe vered Athugalaus / og heþ daglega ſaurgad mig z þleckad med mijnum þwlum Syndum.

O þu Synd/ huørſu audueldlega kiemur þu jn̄? Synd/ Synd/ Huørſu ſæt ertu einum galauſum Manne? En̄ huørſu andſtyggelig ſuiuirdeleg ertu þyrer Gude? Huørſu aumleg eru þijn æþelok? Huad hrædelegt ver dur þitt Heþndarſtraþþ?

Auvi mig auman Syndara/Nu ert skal eg fara? Nuar vil eg blijfa? Nuor vill frelsa mig? Nuor vill þuo z hreinsa mig af mijnu syndu?

O Nerra Jesu Christe/ þu allra liufaste Lausnare/til þijn vil eg fara/ fyrer þier jata eg allar mijnar synder/z hyl ecke mijnar misgiorder.

Ad vijsu minn Nerra Jesu/ Nuar fyrer ertu komen j þenan Neim? Nu ad hefur þu vid Neimen giort? Nuar fyrer ert þu daen? Þu ert daen ad sañu vegna vorra Synda/og ert komen ad giora alla auma og synduga Sæluholpna/ a medal huorra eg er hinn hellste og stærste.

O Jesu þu Neimsins Lausnare/ vertu og eirnen minn Lausnare/Þar fyrer heiter þu Jesus/þad er Frelsare/Sæluhialpare. Nialpa mier aumum syndugum/ og fyrergief mier

allar mijnar Misgiørder. Þu ert mijn Hialp/og þu heþur ecke girnd a miñe Gløtun. Drotten græd þu mijn Samuiſku Sær/ z hugga ſorgþulla Sælu mijna.

Þu ert ad vijſu miñ Endurlauſn are/ a þier er allt mitt Trauſt/ aull mijn Von/ Þier a Hendr þel eg alleina Lijþ z Sæl/ j Lijþe og Dauda. Miñ Gud/ giør vid mig epter þinne mykellre Myſkun/ bæde nu og ad eilijþu/ Amen.

## IX

### Enn ein agiæt Bæn til ad hugleida Herrans Jeſu Chriſti Velgiórninga/ og ad vpp vekia ſig til Þacklætis/ og tilreida ſig ad inngangа med Chriſto j eilijþan Fógnud:

Pſalm. 103. Loþa þu Drotten Sæl mijn/og gleym ecke þui góda ſem Gud heþur giórt þier/ Hañ ſem þyrergieþur þier allar

þijnar Synder/og læknar allan þinn Siuk dom. Hañ leyser þitt Lijf fra Glötuneñe/ og kryner þig med Naad og Myſkun.

Auguſtinus

Mijn Saal/Giæt ad og hugleid huørſu vegſäleg þu ert. Sia þu/Drotten minn Gud heffur ſkapad þig epter ſinne Mynd/og aff Naad ſiñe heffur hañ vtualed þig ſier til Barns. Jeſus Chriſtus heffur þig mz ſijnu Blode endurleyſt/z bunded Tru vid þig. Gud Heilagur Ande hañ er þier gieffen til ad vera þier ſannarlegt Merke og Pantur eilijffs Lijffs.

So haleitlega heffr Drotten þiñ Gud prydt þig/So dyrlega heffur hñ giørt þig/ſo ad þu munt a þeim Dege lijk vera hñs Heiløguñ Engluñ.

Þar ffyrer Saal mijn/ſnu þu þier ad hønum/ſem þig heffur ſo elſkad/ Leita hans ſem epter þier heffur leit-

ad/Þiona þu honum sem þier hefur þionad/elska hann sem soddan Aast hafr hefur til þijn. Hann hefur elskad þig fyrre/og tilbwed þitt Hiarta/so þu mætt elska hñ/Ja/ Hañ er Upphaf z ender þiñar Velferdar.

Astunda þu og eirnen Sæl mijn/ ad hafa Kiærleika til Naungans/ Ber Harm mz sorgfullum/ótu hrein med þeim hreinu / heiløg med þeim Heiløgu. Þuiad so sem Drotten Gud þinn fiñur þig/ so mun hann dæma þig. Hañ er godur og giæskufullur og Þolenmodur/ og vill sijn Børn hier a Jørdu sie z eirnen vingiarnleg god og giæskuriik og hogvær og Mykunsom.

Mijn Sæl/haf þijna lyst j Drottne/sem þig leyst z frelsad hefur fra eilifre Synd og Glotun/ Haf þu hañ og hallt fyrer þinn besta Vin so

leingę sem þu liþer / Þuiad þa þu hlytur ad skiliast vid alla Hlute/ þa mun hann vera hia þier.

Einkanlega a þiñe Dauda stundu/þegar aller þijner Viner eru langt þra/þa yþergieþur hañ þig ecke. Hañ mun geyma þijn þyrer þui grenianda Leone sem þig vill þa vppsuelgia/og hann mun leida þig jnn j þa Himnesku Jerusalem/ og setia þig þyrer sitt dyrlega Auglit/ þar ed þu munt med heiløgum Einglum hønum eilijþlega Loþ syngia/seigiande/ Heilagur/Heilagr/ Heilagur er Drotten Gud Zebaoth / øll Jørden er þull hans Dyrdar.

Miñ Gud/huilijkur Fagnadar søngur mun þar vera? Huad stor Vnadsemd og þagnadar Hliomur mun þar heyrast ? Huørsu þagurlega z sætlega munu Meñ þar Gud Loþa z veg

sama & syngia eilijft Alleluia. Hu-
ør kañ vt ad skyra edur tala þa ovm
rædelegu Glede/þañ oseigāliga Føg-
nud/þa yfergnæfanliga Himerijkis
Dyrd. Huør kañ ad mæla edur meta
þa oforgeingilegu Vnadsemd lyst &
Glede eilijfrar Farsælldar sem þu
meint þar fa og ødlast/ mijn Sæl?

Miñ Herra Jesus hialpa þu mier
so ad Sæl mijna lange oaflætanle-
ga epter soddan Glede/og ad hun dag
lega astundan hafe jnn ad komast j
þa himnesku Jerusælem/ huør ad so
er Heiløg og dyrleg/ j huørre ad eilijf
fagnadar Natijd hallden verdur o-
endanlega.

Miñ Gud/ vpplys & tendra Hiar
ta mitt/ so eg tregest ecke nie letiest/
helldur vphefie Hiarta mitt af Føg
nude motz vid þig/og ad eg j Hugan
um sie j þeirre Himnesku Jerusælem

leite Þrra heilögu Forþedra z Spa mañа/og ad eg meige heilſa þm̃ hei lögu Poſtulum/z ſkoda þiøldan all ra Guds Pyſlaruotta og Vtualldra og ſia Dyrd allra þiña Heilagra.

Miñ Gud og Herra/ Hialpa þu mier þar til/ad bæde Himen z Jørd en og allt þad ſem þar er jnne gieþe mier Ordſøk og Tileþne daglega ad elſka þitt dyrdlega Naþn/z j þier ein um ad haþa mÿna Huggun og Gle de/ Amen. X

# Ein huggunar Bæn j huør re ad riettruads Mans Hiarta yþer vegur og hugleider Sar og Vnder Jeſu Chriſti/og huggar ſig þar vid.

1 Corinth. 2. Jeg hiellt mig þyrer þañ ydar a mille/ſem eckert viſſe/vtan alleinaſta Jeſum Chriſtum þann kroſſþeſta.

Auguſtinus.

JEsu Christe min̄ Drottenn/ Nu ad mÿkel er þÿn Elska/ huørsu oseiganlegur er þin̄ Kiærleike til vor aumra syndugra Manna? Þuiad su Aast z Elska sem þu hafþer til vor/ hun kom þier til þss/ ad þu vorra vegna ert ofan stijgen af Himnum/ og ert orden saññur Madur.

Ja ad vijsu/ Þijn mykla Aast og Elska hefur neydt þig og þuijngad til þess/ ad þu eilijfur osynelegz Gud ert ecke alleinasta orden lijkur oss aumum Þrælum þijnum/ helldur þa hefur þu eirnen̄ lated þig vorra vegna so hryggelega pijna og særa.

Min̄ Lausnare/ Huad elskulegan hiartanlegan Nuijsdarstad hefur þu mier aumum Syndara til reidt z bwed j þijnum Vndum z Sarum/ Nuørsu rijkuglega Huggun finn eg þar jnne j giegn øllum mijnum Syndū?

Huorſu ƥagurlega liomar og leiptrar þadan þijn Hiartans Aaſt og Elſka til vor?

Ja ad vyſu minn Lauſnare/ Allt huad helſt eg þarƥ til Huggunar minne Saalu/ þad tek eg wr þijnum heiløgum Saarum og Vndum. Þu heƥur lated opna þijna heiløgu Sijdu minna vegna/ ſo ad þitt aſtrijka Hiarta oped være ƥyrer mier aumum ſyndugum/ Þuiad j Saarum þijns Bleſſada Lijkama ƥinn eg Nææd og Giæſku Hiarta þijns. Vt aƥ þinne Sijdu ƥlytur mitt Hialprææde/ og vt aƥ þijnu heiløgu Hiarta mijn Huggun. J þijnum Saarum og Vndum/ ſkijn og liomar hiartanleg Myſkun vors Guds/ j huørre þu heƥur vitiad vor vppruñen j Hæædum.

Ja Herra Jeſu Chriſte/ Þijn heiløgu Saar og þijnar Vnder eru ƥull

ar med Nꝏd og Mykun/ꝥullar mz Giæſku z godgirnd/ꝥullar med Aaſt og Elſku. Þeir haꝥa þynar Nend‑ur og Fætur j giegnum ſtunged/ og þyna Sijdu j giegnū lagt med Spio‑te/ ſo ad eg þar vt aꝥ þae ad ſmacka huad ſætur/ lyſtelegur og liuꝥur þu ert minn Herra z miñ Gud.

O Jeſu Chriſte/þu ſem ad ert ſo hiartanlega godur z æſtwdlegur øll um þeim ſem þig aꝥ Hiarta akalla/ ſo ſætur z liuꝥur øllum þeim ſm̄ þyn leita/ſo audmiukur z giæſkurijkur vid þa alla ſem þig aꝥ Hiarta elſka/Gi eꝥ þu Nꝏd og hialpa þu oſſ/ ſo vier aumar Mañeſkiur medkieñuin/huør ſu dyrdarlega vier erum ꝥyrer Sꝏr þijn og heilagar Vnder endurleyſter og ꝥrelſader/ ſo vier mættum ꝥinna þar yꝥergnæꝥanlega Nüggun þijns Sætleika og nægd þiñar Nꝏdar/og

þÿna heiløgu Vmgeingne haꝼa æ-
tÿd ꝼyrer Augum/Amen.

XI.

# Ein áunnur huggunarꝼull Bæn/ j huørre riettruadur Madur huggar sig vid Sáren Jesu Christi j óllum Freistingum og Motgange.

Act. 4. Þar er ecke Heilsugióꝼ j nóck-
rum ódrum / og ecke er þar nóckurt annad
Naꝼn Mónnum gieꝼed/ j huóriu vier kunn-
um ad verda Saluholpner / nema Naꝼned
JESVS.

Augustinus

Herra Jesu Christe/ Þÿnar
heilagar Vnder eru mitt Athu
arꝼ og Hæle j øllum mÿnum
Neydum og Freistingum. Þuiad so
opt sēm jllar Huxaner vpp koma j mÿ
nu Hiarta/ þa huxa eg vm þÿn Saar
z þÿnar Vnder/ allt þangad til þær
Huxaner lÿda j burtu. So opt sem

mitt Holld og Blod plægar mig/þa hugleide eg þijna Pijsl z Pijnu/þan gad til mitt Holld z Blod lætur mig vera aptur j Fride.

So opt sm̄ Sathan freistar mijn med sijnum Aræsum og Vielum/þa set eg fram̄ fyrer han̄ Guds hiartan lega Nad z Myskun/þangad til hn̄ flyr fra mier. So opt sem Heimur þesse lockar mig til ohreiña Synda/ þa set eg mier fyrer Hugskot þijna særu Pijsl og Pijnu/ allt þangad til su vonda Girnd lijdur j burtu.

Ad vijsu miñ Lausnare/Huad mij ked sem mier kañ a ad liggia/þa hef eg ecke/og ecke veit eg nockra betre Lækning enn þijnar heilagar Vnder Ef eg næ þeim / og fae eg ad fela mig j þeim/þa er eg holpen.

Miñ Herra Jesu Christe/þu sem daen ert fyrer mig/og Daudans An

gift hefur smackad fyrer mig/hialpa þu mier a minne Daudastundu/ og burt drijf Beiskleik Daudans med Sætleik þinnar Huggunar.
Þu veist Drotten ad eg set alla mijna Von allt Traust vppa verdskulldan og Forþienustu þijns Dauda. Sialfur hef eg ønguа Forskulldan veit ꝛ ei helldur nockra hia ødrum/ꝛ ei hef eg nockurt adhuarf Hæle eda hialp/vtā forþienustu ꝛ Verdskulldan þijns Dauda. Þijn Nad er mijn forþienasta / fyrer þijna giæsku hef eg Vpprisuna og Lijfed.
Nær eg ad eins hef þig þu Drotten allrar Nadar ꝛ Myskūar/þa hef eg noga og gooda Forþienan / Þuiad so rijkur sem þu ert ad Myskun/so rijkur verd eg ad Forþienan / þuiad vt af Nad ꝛ Myskun hefur þu mier þijna Forþienustu giefed og veitt.

O Herra Jesu Christe þu sem Almattugur ert til ad hialpa og Sælu holped ad giøra/Hialpa þu mier/ so ad eg haþe j þier þrid z rolega Samuisku alla tijma/ z haþe mijna Hugg un j þijnum heiløgū Undum z Sarum allt til aþeloka/ Amen.

## XII

## Ein god Bæn/ i huørre ad Hiarta Mans Huggar sig j giegn Syndanna þiólda/ og þelur sig j Sarum Jesu Christi.

1. Timoth. 1. Pad eru vissuleg Sañinde og eitt Dyrmætt verdugt Ord/ad Jesus Christus er j Heimen komen til ad giöra Sælrholpna þa Syndugu/a medal huórra eg er hinn hellste.

Augustinus.

HErra Jesu Christe/miñ Gud Huørsu þunglega heþe eg misgiørt? Eg veit z vidurkienne huad margt Jllt eg heþe giørt/z

huørsu sarlega eg hefe þig modgad
og til Reide reitt/þo samt vil eg ecke
eruænta mier þinnar Myskunar/
Þuiad þo mijnar Synder sie marg-
ar z myklar/þa er Myskun þijn Dr-
otten eñ myklu meire. Ja ad vijsu/
Drotten Herra Jesu Christe/ Huør
hann vegna Synda sinna eruænter
sier Nadar/sa afneitar þiñe Mysk
un. Eñ huør hañ efar þijna Mysk
un/hañ giører þa allra stærstu Sy-
nd. Þuiad huør hañ efar Myskun
seme þijna/hañ efar og eirnen þar
med þinn Sañleika/j huørium þu
hefur so stadfastlega til sagt/z Lof
ad þisse Myskun/Hann efar z eirn-
en þinn Kiærleika/j huørium og fyr
er huorn þu hefur giørt oss ad þijn
um Samørfum/hañ efar og eirnen
þitt Almætte/fyrer huørt þu hefur
oss leyst og frelsad fra Diøfulsins

Vallde.

Og þo ad Sathan vilie med sinne slægd-foddan Nuxønum skiota mier i Hiarta/ z seigia/ Huør ert þu aum ur Madur/og huad ertu? Huar er þitt Heilagleike? Huar eru þyn God uerk med huørium þu villt þorþiena Lijþed/ Þa andsuara eg hønum med þullu Trauste/og seigie so / Eg veit a huørn eg true/ Eg er z eirnen vijs þar vppa/ad hann sem er eirn almatt ugur Gud heþur þramboded mier sijna Nad/ hann heþur teked mig sier til Barns/aþ skiærre Nad z Myskun/z hann er so almættugur/ad huad hellst hann heþur loþad mier og þyrer heited þad kann hann og vill vissulega hallda

Og þo ad Synder mijnar være enn nu þleire og meire enn þær eru/ þa skielþest eg ecke/ Þuiad eg þorlæt

mig/eg true og treyste vppa Dauda mijns Lausnara Jesu Christi/huør ad j allan mata er kroptugre eñ allar mijnar Synder/Ja ad vijsu/Naglanner mz huørium hañ var a Kroßen negldur/ og Spioted huørin lagt var j hans Sijdu/eru mier Vitne ad eg er sannarlega j Sætt komen vid minn Gud pyrer Jesum Christum a huørn eg true / og j huørium eg heþ alla mijna Glede og Huggun. Eiñ aþ strijds Mønnonum heþur þyrer mig opnad Sydu mijns Lausnara/þangad þer eg/og þar vil eg þela mig/ og þar er eg Obrædddur þyrer þui øllu sem mig kann ad astrijda og opsækia.

Huør hañ er eñ nu hræddur Tru arueykur og eþasamur vegna sinna Synda/ sa hugge sig vid þad sæta Naþned Jesus/og þa mun hann þa

og þiña Fognud j ſijnu Hiarta.

Minn Herra Jeſu Chriſte/Nuær ſu opt þreiſtar Andſkoten mijn/ med Vellyſtingum þeſſarar Veralldar/ mijna Saal þar med ad ſuijkia. Eñ þar a mote heþ eg ęngua Lækning nema þſſa eina/ad eg hugleide Drotten Jeſu Dauda þiñ og Pijnu þijna.

Miñ Lauſnare/þu ſem a heiløgum Kroſſe heþur vtbreidt þijnar bæder Hendur z þijna Arma/til þeſſ ad taka vid oſſ aumum og ſyndugum/og draga oſſ ad þier/Sia/Eg gieþ mig og legg mig allan þier j Fadm og Hendur/og eg veþ mig j þijnu Skaute/þar vil eg liþa og deyia/og gladlega ſyngia og ſeigia/ ſo ſem ſtendur j Pſal. 107. Drotten/Eg prijſa þig þuiad þu heþur vpphaþed mig/z heþur læted Ovine mijna ecke glediaſt yþer mier.

Miñ Frelsare/þu sem a Heiløgum Krosse varst med niðurlwtu Høfde þrambiodande þiñ ææstar og kiærleikans Koss øllū þeim sem þig elska/ Hialpa þu mier Drottenn/ad eg aptur a mote miñest vid þig/og hafe nuna Lyst og Glede alla tijma j þier/ Amen/ Amen.

# V. Capitule

## Hefur inne ad hallda nøckrar Bæner til Guds Heilags Anda.

### I.

Zach. 12. Yfer Hws Dauids/og yfer Borgarmēñ j Jerusalem vil eg hella Anda Naudareñar og Bænareñar.

Augustinus.

Drottenn Gud heilagur Ande þu almattuge Huggari/þu sem ad ert logande Aastar elldz j einþolldū Guddome og þad heilaga Sāmband Guds Fødurs Almattugs og hans elskulega Sonar. Þu verduge Huggare þrra aumu/kom þu med þijnum Dyrdar krapte j Hiarta mitt/tak þad ad þier og bw þu þar. Drottenn vpplys þu z gled þennan Dimā og ohreina Bustad/sem er mitt Hiarta/ med Lioma þiñar Birtu/ vitia þu hans/vøkua hañ med þine Rekiu/ og lijþga hann med þijnum Krapte / þuiad hann er þurr og visen. Drottenn ahrœr Leyne hins jnra Mansins mz þijnum heilsusamlegum Aastar hita/þuiad hañ er tregur z soþande/Vpplys þu hañ med Ellde þinar heiløgu Aastar/og brenn j burtu þa jnre Illsku minna

holldlegra Girnda/ Gief mier ad dre
cka af Vppsprettu þijns Fagnadar/ so
ad mig meige ecke þyrsta epter þany
tum Girndum z Vellystingum þess
arar Veralldar. Eg veit/ z eg true
þui/ad þar sem þu byr/ þess Mans
hiarta giorer þu Bwstad Gude Fød
ur og hans Syne. Sæll er sa/huørs
Gestur ad þu ert / Þuiad fyrer þig
mun Faderen og Sonuren sier Vist
arveru hia honū giora. Kom þu nu
goode Huggare sorgfullra Sælna.
Kom og vert vor Huggun j Neydeñe
og Hialp j Nørmunguñe. Kom og
hreinsa af oss Synder vorar og læk
na vor Sæar. Kom og styrk þañ vey
ka/hialpa þm fallna. Kom þu z leid
riettu þañ auma/z sundfnr dreif þu
þeim Drambsømu. Þu gode Fader
fødurlausra/kom þu z hialpa þeim
volsølu/z lijfga þa siuku/ Kom z leid

a rierran veg þa sem villter ꝥara/og hialpa þeim aumu wr þeirra Neyd. Kom og pryd oss med þijnum godum gaꝥum a medan vier liꝥum/ og vert vor einka Hialp og huggun j Daudanum. Kom þu gode heilage Ande/ Kom z myskuna þig yꝥer oss.

Tilreid þu mitt Hiarta handa þier/og hneig þig til mijn myskunsamlega/ so ad eg kuñe ad ꝥiña til þijn j þijnu Orde/ Þu hiñ mykle og mattuge Gud/hialpa þu mier/sa ad eg j mijnum veyka Vanmætte kunne ad þocknast þier/epter mijkillre Myskun þinne/ꝥyrer Jesum Christum minn Lausnara/sa sem med Fodurnum og þier liꝥer og rijker ad eilijꝥu/ Amen.

II.

Ein ønnur Bæn til Guds Heilags anda/ ad hann villde hrein-

Bæner til
sa vor Hiórtu/uppfylla þau mz Hug
gun Jesu Christi/ z hallda þeim vid
rietta Tru/ og eitt nytt gott og
gudlegt Framferde.

Psalm. 143. Drotten/kienn þu mier ad
giöra þad sem þier er þægelegt/ Þuiad þu
ert miñ Gud/ þinn godur Ande leide mig a
riettan Veg.

Augustinus

DRotten Gud Heilagur Ande/ kom þu og hreinsa mitt saurugt Hiarta og fyll þad med þinne heilsusamlegre Vøkuan huør ad vt er runnen af Sijdu mijns Lausnara Jesu Christi/ Giørdu traust z stadfast Kier Hiarta mijns j giegn allre Astrijdu/ so ad eg spille ecke sætleik þinnar Huggunar/ nie helldur Vijne Fagnadarens.

Minn Drotten/ minn allra beste Huggare/ Huor.ien kañ þad goda ad koma j mitt Hiarta/ a medan þ von-

da er eñ nu þar þyrer? Sia þu/mitt Hiarta heþur eñ nu lyst til Syndar ennar/og gledur sig j þaþeingeligum Hlutum/þar aþ saurgast Kier mijns Hiarta/ og þui spillest opt Sætleike þinnar Huggunar.

Miñ Gud/hreinsa þu mitt Hiarta aþ øllum syndsamlegum Girndū/og giør mig stadþastan til ad standa á mote øllu þui sm̄ mier kañ ad snua þrá Gude mijnum. Hreinsa þu mig aþ øllu jllu/og þyll mitt Hiarta med þijnum heiløgum Giædum. Aþma þu Beiskleik minna Synda/og gled mig med sætleik þinnar Huggunar. Þu Drotten ert sa sem vppuekur j vorum Hiørtum Huggun og þagnadar Aast og Elsku til Guds.

O Helge Ande/ rek þra mier þa vondu Anda. O þu gode Ande/veit þu mier styrk ad standa j mote øllū

